# Sameiningin.

*Mánaðarrit til stuðnings kirkju og kristindómi Íslendinga, gefið út af hinu ev. lút. kirkjufélagi Ísl. í Vestrheimi.*

RITSTJÓRI *JÓN BJARNASON.*

8. árg. WINNIPEG, JÚLÍ 1893. Nr. 5.

## *NÍUNDA ÁRSÞING*

hins ev. lút. kirkjufélags Íslendinga í Vestrheimi kom saman í Fyrstu lútersku kirkju í Winnipeg föstudaginn 23. Júní 1893. Áðr en þingið væri sett, fór guðsþjónusta fram, eins og venja er til. Var fyrst sunginn sálmr, hinn 617. í sálmabókinni („Vér komum saman á kirkjufund"); síðan flutti séra Hafsteinn Pétrsson bœn og séra N. Steingrímr Þorláksson prédikaði út af Lúk. 11, 14—28; og að ending var aftr sálmr sunginn, hinn 298.—Þá setti varaforseti kirkjufélagsins, séra Friðrik J. Bergmann, samkomuna samkvæmt þingsetningarformi því, er fa(r)ið hefir verið eftir á undangengnum kirkjuþingum, og skýrði því næst frá, að söfnuðir þeir, er nú skulu nefndir, stœði í kirkjufélaginu: Garðar-söfnuðr, Þingvalla-s. (við Eyford), Víkr-s., Fjalla-s. Grafton-s., Hallson-s., Vídalíns-s., Pembina-s., Brandon-s., Frelsis-s., Fríkirkju-s., Þingvallanýlendu-s., Lúters-s., Winnipeg-s., Selkirk-s., Víðines-s., Brœðra-s., Fljótshlíðar-s., Árnes-s., St.Páls-s., Marshall-s., Spanish Fork-s. (í Utah). Af hinum 4 prestum kirkjufélagsins voru þessir þrír komnir á þing: séra Friðrik J. Bergmann, séra N. Steingrímr Þorláksson og séra Hafsteinn Pétrsson; hinn fjórði, séra Jón Bjarnason, forseti kirkjufélagsins, var fjarstaddr sökum sjúkdóms. Þá var og féhirðir félagsins, Árni Friðriksson, viðstaddr og ennfremr guðfrœðis-kandídatarnir, Björn B. Jónsson og Jónas A. Sigurðsson. — Þeir Magnús Pálsson, Skapti Arason og Þorlákr G. Jónsson voru kvaddir í nefnd til að rannsaka kjörbréf erindsreka.

2. fundr, sama dag kl. 3 e. m.

Kjörbréfanefndin kom með skýrslu sína, og áttu sæti á þinginu þeir erindsrekar frá söfnuðunum, er nú skal greina: Magnús Pálsson, Vilhelm H. Pálsson, Páll S. Bardal og Jón Á. Blöndal frá Winnipeg-söfnuði; Jónas Bergmann frá Selkirk-s.; Friðjón Friðriksson, Kristján Jónsson og Jón Björnsson frá Frelsis-s.; Skapti Arason og Björn Jónsson frá Fríkirkju-s.; Þorvaldr Þórarinsson frá Bræðra-s.; Sveinn Þorvaldsson frá Árnes-s.; Gunnlaugr E. Gunnlaugsson frá Brandon-s.; Magnús Magnússon, Sigfús Bergmann og Jón Jónsson (eða Sigurðr Sigurðsson) frá Garðar-s.; Þorlákr G. Jónsson, Sveinn Sölvason og Halldór Fr. Reykjalín frá Víkr-s.; Ásvaldr Sigurðsson frá Þingvalla-s.; Ólafr Einarsson frá Fjalla-s.; Jónas Kr. Jónasson og Jón Sigfússon frá Vídalíns-s.; Jónas A. Sigurðsson frá Pembina-s.; Bjarni Jónsson frá St. Páls-s. — Af þessum erindsrekum vantaði þessa þrjá, er þingið var sett: Sigurð Sigurðsson (í stað J.J.), Jón Sigfússon og Svein Þorvaldsson. — Frá Marshall s. og Víðines-s. voru framlagðar afsakanir fyrir að hafa eigi sent neinn erindsreka til þingsins.

Allir kirkjuþingsmennirnir rituðu undir þessa játning:

Vér undirskrifaðir prestar og kirkjuþingsmenn endrtökum hér með hina lútersku trúarjátning safnaða vorra, er vér sem meðlimir hinnar lútersku kirkju áðr höfum gjört, og skuldbindum oss hátíðlega til að starfa á þessu kirkjuþingi og heima í söfnuðum vorum að þeim málum, sem hér verða samþykkt, samkvæmt grundvallarlögum kirkjufélags vors og tilgangi þeirra.

*ÁRSSKÝRSLA FORSETA,*

samin af forseta sjálfum séra J. Bj., og af honum fjarveranda send þinginu, var því næst upplesin:

Það lítr líkt út í kirkjufélagi voru nú og á ársþingi þess í fyrra.

Söfnuðir þeir, sem í því stóðu þá, voru 22. Tala safnaðanna nú er hin sama. — Óðar en fréttist um ályktan þá, er tekin var á síðasta kirkjuþingi út af fyrirspurn smásafnaðarins í Victoria viðvíkjandi skilningi á trúarjátning kirkjunnar, flýtti nefndr söfnuðr sér út úr kirkjufélaginu. Fækkaði þannig rétt eftir ársþingið í fyrra í kirkjufélaginu um einn söfnuð að nafninu til. En úr þessari fækkan bættist aftr við það, að Árnessöfnuðr í Nýja Íslandi, sem fallið hafði í dá við fráfall séra Magnúsar Skaftasen

frá lúterskri trú og úrgöngu hans úr kirkjufélaginu, var á ný reistr við og gekk svo rétt eftir síðast liðin áramót í kirkjufélagið. Þótt söfnuðr sá sé ekki margmennr, er hann þó stærri en hinn úrgengni söfnuðr í Victoria; en einkum tel eg þó kirkjufélaginu ávinning í þessum safnaða-skiftum fyrir þá sök, að hinn afar-fámenni úrgengni söfnuðr var svo langt burtu frá öllum öðrum söfnuðum félags vors, að til hans varð eigi náð með nokkurri prestþjónustu, þar sem aftr á móti hinn söfnuðrinn, er inn hefir gengið á ný í kirkjufélagið, liggr í miðjunni á víðlendu héraði, sem nú meir og meir aftr er að verða kirkju vorri andlega tilheyrandi, eftir að fólki er orðið ljóst, hve djúpt hinn fyrverandi prestr þess byggðarlags, séra Magnús Skaftasen, hefir fallið frá kristinni trú.

Söfnuðr sá, sem myndazt hefir í Spanish Fork, Utah, út af trúarboði Runólfs Runólfssonar, verðr nú að eins óbeinlínis talinn heyrandi kirkjufélagi voru til, síðan hann samkvæmt meðmælum vorum komst í samband við *General Council*, sem er sú af aðaldeildum lútersku kirkjunnar í þessu landi, er vjer höfum haft mest afskipti af og helzt notið liðsinnis hjá í hinni kirkjulegu baráttu vorri. Um fjárstyrk þann, er veittr var af því lúterska kirkjufélagi þessu íslenzk-lúterska trúboði í landi Mormona-villunnar, er getið í ársskýrslu forseta frá síðasta kirkjuþingi. Kirkju lét svo kirkjufélag það reisa í Spanish Fork fyrir trúboð þetta, sem var vígð 31. okt. síðast liðið haust, og var hr. Runólfr við sama tækifæri að afloknu fyrirskipuðu guðfræðisprófi reglulega prestvígðr.

Allt fram að þessu ársþingi kirkjufélags vors hefir fæð prestanna í félaginu verið söm og áðr. Trúboðinn íslenzki í Utah, sem þegar var nefndr, telst eigi framar nema óbeinlínis (eins og söfnuðr hans) til kirkjufélags vors; og hinir eiginlegu prestar í kirkjufélaginu eru þannig sem stendr, eins og í fyrra, að eins fjórir. En eins og yðr, sem mætt hafið hér á þessu kirkjuþingi, er kunnugt, má heita að eg, einn af þessum fjórum prestum, sem hefi þann heiðr að leggja þessa forseta-ársskýrslu fram, hafi verið úr sögunni allt þetta liðna ár. Sökum sjúkdóms þess, sem yfir mig var fallinn nærri því hálfu ári fyrir síðasta kirkjuþing og drottni ekki enn hefir þóknazt að láta neinn enda verða á, hefi jeg verið kirkjufélaginu því nær til einskis gagns. Svo að heita má, að í kirkjufélaginu hafi allt þetta liðna ár að eins verið þrír starfandi prestar. Einn þeirra, séra Hafsteinn Pétrsson, prestr safnaðanna í Argyle-byggð innan Manitoba-fylkis, hefir með leyfi safnaða sinna eftir mætti unnið í minn stað að preststörfum í mínum söfnuði í Winnipeg. En að því er snertir starf það, er mér hefir verið falið á hendr sem forseta félagsins, hefir það, eins og að sjálfsögðu, að mestu leyti hvílt á varaforseta, séra Friðrik J. Bergmann. Það liggr þannig í augum uppi, að þar sem verkamennirnir hafa verið svona sorglega fáir, þá

muni lítið hafa verið unnt að vinna að útbreiðslu trúarboðskapar vors meðal fólks þess, er stendr utan safnaðanna. Samkvæmt fyrirmælum síðasta kirkjuþings gjörði þó einn af þessum fáu prestum, séra Hafsteinn Pétrsson, í fyrra sumar trúarboðsferð til hinna prestlausu safnaða í Þingvallanýlendu og Lögbergsnýlendu vestr frá takmörkum Manitobafylkis, og seinna á árinu (í septembermánuði) sami prestr samskonar ferð til hins víðlenda og fjölmenna byggðarlags við Winnipegvatn, Nýja Íslands, sem einnig hefir verið prestlaust — eða verra en það — síðan séra Magnús kastaði sjer í arma vantrúarinnar.[1]

Af þeim íslenzku byggðarlögum, sem nú eru alveg prestþjónustulaus, virðist mér Nýja Ísland vera það, sem kirkjufélagið þarf að reyna að liðsinna í þessu tilliti á undan öllum öðrum, með fram sökum þess, hve fjölmennt það er, en líka meðfram fyrir þá sök, hve stórkostlega mikið almenningr þar hefir liðið í andlegu tilliti við antikristindóms-uppátæki hins fráhorfna prests, sem áðr hafði þar kennimennsku og sálusorg á hendi í nafni hinnar lútersku kirkju vorrar.

Þar sem verkamennirnir vor á meðal hafa verið svo hörmulega fáir, en uppskeran hinsvegar svo ákaflega mikil, þá hlýtr það að vera mikið gleðiefni fyrir alla vini kirkjunnar, að vita tvo unga landa vora, nýútskrifaða með bezta orðstýr frá sínu guðfræðisnámi við lúterskan prestaskóla í Chicago, þá Jónas A. Sigurðsson og Björn B. Jónsson, komna til kirkjuþings þessa með þeim ásetningi að taka hið bráðasta að sér prestskap í nafni kirkjufélagsins. Hinn fyrnefndi hefir þegar fengið köllun frá Vídalíns- og Pembina-söfnuðum í norðrhluta Íslendingabyggðarinnar í Norðr-Dakota, og upp á þá köllun er ákveðið, að hann verði prestvígðr, meðan á kirkjuþingi þessu stendr. Og að því er hinn síðara kandídat snertir, þá er það tillaga mín, svo framarlega sem hann ekki enn (eins og eg ekki veit til) hefir þegið köllun frá einhverjum hinna prestlausu safnaða, að þetta kirkjuþing gefi út köllun til hans sem trúarboða í bráðina fyrir kirkjufélagið í heild sinni á þeim plázum, þar sem mest er þörf á slíku starfi. Og taki hann þeirri köllun, eins og eg tel nærri því víst, að hann muni gjöra, þá myndi hann einnig taka prestvígslu á kirkjuþingi þessu.

Eins og ekki er furða, hefir fólk í ýmsum söfnuðum kirkjufélagsins í liðinni tíð út af prestaskortinum hér horft vonaraugum heim til móðurkirkjunnar á Íslandi, gangandi út frá því, nærri því sem sjálfsögðu, að einhverjir guðfræðingar þar myndi finna hjá

1) Eins og samþykkt var á síðasta kirkjuþingi, var síðast liðið sumar nokkuð bætt úr skortinum á prestlegri starfsemi í kirkjufélaginu, með því að hinir tveir þá verandi guðfræðis-nemendr voru fengnir til að prédika um hríð í þeim söfnuðum, er helzt þurftu á aukinni prestsþjónustu að halda. Björn B. Jónsson prédikaði þannig bæði í Winnipeg og Argyle-byggð, meðan séra Hafsteinn Pétursson var í sínum trúarboðsferðum; Jónas A. Sigurðsson aftr á móti í þeim af Dakota-söfnuðunum, er séra Friðrik J. Bergmann gat sízt hjálpað upp á í prestþjónustulegu tilliti. Var þeim báðum að hér um bil hálfu leyti launað það verk úr kirkjufélagssjóði.

sér köllun til að koma hingað yfir um og hjálpa löndum þeirra og trúarbræðrum út úr prestleysis-vandræðunum. Sumir hafa jafnvel beðið biskupinn á Íslandi um að miskunna sig yfir þá í prestleysinu hér með því að senda þeim prestsefni. Ekkert af þessu hefir mönnum veitzt. Og sýnist lítil ástœða að syrgja út af því. Ýmsir guðfrœðingar þar heima hafa annars nú þessi síðustu ár hálfvegis verið að bjóða sig fram til prestskapar í kirkjufélagi voru, en æfinlega hætt við, þegar á hefir átt að herða. Yfir höfuð mun ráðlegast að sœkjast sem minnst og með sem mestri gætni eptir prestum eða prestsefnum handan yfir haf, með því að þá einstöku presta eða guðfrœðinga á Íslandi, sem hér myndi vera til virkilegrar uppbyggingar, eigum vjer vitanlega yfir höfuð alls eigi kost að fá. Kirkjufélag vort ætti héðan af meir og meir að geta komizt af með þá menn til allrar sinnar guðsþjónustu, sem upp eru vaxnir með söfnuðum vorum og fengið hafa hérlenda guðfrœðismenntun.

Fyrir utan kirkju safnaðarins á Gardar, sem vígð var, meðan kirkjuþingið í fyrra stóð yfir, hefir að eins ein kirkja, það er að segja kirkja Brandon-safnaðar í Manitoba, verið vígð á árinu. Í sjúkdómsforföllum mínum annaðist séra Hafsteinn Pétrsson þá kirkjuvígslu á trínitatis hinn 28. dag maímánaðar í vor. — En svo er ætlazt til, að kirkja Selkirksafnaðar verði vígð, meðan stendr á þessu kirkjuþingi. Fyrir brögð þeirra manna, sem upphlaupið gjörðu í Selkirk-söfnuði í fyrra, lá við, að söfnuðrinn missti alveg kirkjueign sína, en nú á síðast liðnu vori heppnaðist söfnuðinum að ná aptur eign sinni úr höndum mótstöðumannanna og tryggja sér hana lagalega.

Í fyrra eyðilagðist í ofveðri kirkja safnaðarins í Marshall, Minn., í prestakalli séra Steingríms Þorlákssonar. En síðara hluta ársins, sem leið, var hún endrreist, vandaðri og snotrari en áðr. — Þingvallasöfnuðr í Norðr-Dakota kom sjer einnig upp nýrri kirkju á Eyford, sem þykir mjög myndarleg, en er enn eigi fullgjör.

Hið litla málgagn kirkjufélagsins „Sameiningin“ hefir á árinu verið á gangi, eins og áðr. Allt til ársloka annaðist séra Friðrik J. Bergmann ritstjórn þess í minn stað, og eins núna upp á síðkastið, eptir að eg á ný varð algjörlega óverkfær. Hann á þakkir skilið fyrir bæði það og annað verk, sem hann hefir af mér tekið í mínum vesaldóm. Hvernig fjárhagr „Sameiningarinnar“ stendr, sést á reikningi þeim, sem útgáfunefndin væntanlega leggr fram fyrir kirkjuþingið.

Aðalmál kirkjufélagsins hefir á ársþingunum að undanförnu verið skólamálið, og eg vonast til, að svo verði enn á þessu þingi. Hafi fjársamskotin í skólasjóð frá hinum ýmsu söfnuðum kirkjufélagsins árið þetta, sem liðið er, verið óalmenn og of lítil, eins og eg er hræddr um, þá verða prestar og erindsrekar safnaðanna, sem á kirkjuþingi þessu sitja, að gjöra allt, sem í þeirra valdi stendr

til þess að úr því verði bráðlega bœtt á komanda ári. Og leyfi eg mér í því sambandi að vara við þeim óheppilega sið, sem tíðkazt hefir að undanförnu í söfnuðum kirkjufélagsins, að draga árlega að leita samskota til skólasjóðs og annara kirkjufélagsstarfa þangað til rétt á undan kirkjuþingi, í stað þess að nota til þess haustið eða þann tíma ársins, þegar almenningr hefir helzt fjárráð. — Það þarf að halda áhuganum fyrir skólamálinu sílifandi í söfnuðunum. Almenningr verðr að venja sig á að styðja skólasjóðinn einnig þá, þegar miðr lætur í ári. Fáist menn til að leggja fé til kirkjulegra þarfa að eins þá, þegar svo og svo mikið er afgangs, eftir að séð hefir verið fyrir öllum hinum veraldlegu þörfum, þá sýnir það, að það sama fólk leitar ekki guðs ríkis fyrst af öllu, eins og frelsarinn býður, heldr seinast af öllu. — Þessi sannindi vildi eg að þetta kirkjuþing vildi gera svo vel að brýna fyrir sér í sambandi við skólamálið.

Eg hefi fengið tilkynning frá hr. Sigtrygg Jónassyni,sem, eins og yðr er kunnugt, er sem stendr heima á Íslandi, að vér eigum kost á að fá hið merkilega bókasafn séra Eggerts sál. Briem, til kaups, flutt alla leið vestr til Winnipeg, fyrir $300,00 eða jafnvel þar fyrir innan, svo framarlega sem vér getum sent andvirðið upp til Íslands, áðr en hann fer af landi burt seint í næsta mánuði. Eg hefi skrá yfir bókasafn þetta í höndum, sem eg hefi vandlega rannsakað, og getið þér fengið tœkifœri til að kynna yðr bókaskrá þessa, meðan á kirkjuþinginu stendr. Eg álít allt að því óhœfu, ef kirkjuþingið sæi engin ráð til að kaupa safn þetta, sem er auðugra af íslenzkum bókum, blöðum og tímaritum frá öllum tímum heldr en nokkurt prívat-bókasafn á Íslandi. Og það er auðvitað langtum meira virði en það verð, sem oss er boðið það fyrir. Eg legg það því hiklaust til, að kirkjuþingið sinni þessu boði, en læt það að öllu sjálfrátt um það, hver ráð það hefir til þess að útvega það fé, sem þarf til þessara bókakaupa. — En taka skal eg að ending fram, að það eru engin líkindi til, ef þessu tœkifœri verðr sleppt, að unnt verði síðar að útvega hinum tilvonandi skóla kirkjufélagsins annað eins safn af íslenzkum ritum.

Mig hefir langað til og langar enn til, meðan eg ligg í mínum lamasessi, hver endir sem þar á kann að verða, að geta þó að einhverju leyti verið almenningi til andlegrar uppbyggingar. Í því skyni hefir mér komið til hugar, að láta gefa út á prent safn af prédikunum eptir sjálfan mig, sem samdar eru með sérstöku tilliti til þeirra árása, sem boðskapr vorrar kristnu trúar á þessum síðustu tímum liggr undir frá erindsrekum vantrúarinnar. Vill kirkjuþing þetta gjöra nokkuð til þess, að mjer verði unnt að koma þessu prédikana safni út? Vilja hinir háttvirtu kirkjuþingsmenn takast á hendr að safna fyrir mig áskrifendum að slíku safni, sem, ef af útkomu þess yrði, myndi prentað í R.vík og selt með svipuðu verði og aðrar ísl. prédikunar-bækur? Úr mörgum áttum og

fyrir löngu hefi eg fengið áskoranir um að koma prédikana safni eftir mig út á prent. En sökum féleysis sé eg engin ráð til þess, nema eg gegnum kirkjufélagið eða á annan hátt fái til þess stuðning.

Háttvirtu kæru trúarbræður! það hefði verið mér gleði, að mega sitja með yður á þessu kirkjuþingi. En eg verð að láta mér nægja að vera yðr nálægr í anda þennan tíma og biðja hinn almáttuga drottin kristninnar að senda yðr sinn anda og blessa hið þýðingarmikla, sameiginlega starf yðar.

Og svo vil eg segja yðr þetta að ending: Þegar eg í sjúkdómi mínum hefi kennt mest til míns eigin veikleika, þá hefi eg bezt vitað, hvers virði er evangelíum kristindómsins. Guð gefi, að þér á þessu ársþingi kirkju vorrar hver um sig hafið viðlíka meðvitund um það, hvers virði kristindómrinn er. Þá mun það koma fram, að eins og sjúklingarnir vilja gefa allt sem þeir eiga fyrir heilsuna, eins sé hver einstakr yðar fús til þess að leggja meira en lítið í sölurnar til þess, að sú stofnan lifi hjá oss og blómgist, sem á að viðhalda í mannfélaginu því almættisorði hins eilífa kærleika, sem gefr líf í dauðanum.

Park River, N. D. 21. Júní 1893.

Jón Bjarnason.

Ólafi þorsteinssyni frá Pembina, N. Dak., sem var viðstaddr, var veitt málfrelsi á þinginu.

*Kosning embættismanna*

fór næst fram. Forseti var kosinn séra Jón Bjarnason, skrifari séra Hafsteinn Pétrsson, féhirðir Árni Friðriksson. Varaforseti séra Friðrik J. Bergmann, varaskrifari kand. Björn B. Jónsson, varaféhirðir Skapti Arason. — Séra Jóni Bjarnasyni var sent hraðskeyti frá þinginu um kosning hans ásamt blessunarósk.

þá voru fundarreglur lesnar upp.

Í nefnd til að íhuga ársskýrslu forseta voru kosnir: séra N. Stgr. þorláksson, séra Hafst. Pétrsson og Björn Jónsson. Sömu nefnd falið að raða málum niðr á dagskrá.

Nefnd var sett í *málinu um prestaskort*, og í hana kvaddir þessir 7: séra Hafsteinn Pétrsson, séra Stgr. þorláksson, Sk. Arason, Fr. Friðriksson, Vilh. H. Pálsson, þorv. þórarinsson, Jónas Bergmann.

3. fundr, laugard. 24. Júní, kl. 9 f. m.

Erindsreki frá þingvallanýlendu-s., sem ekki var áðr, Tómas Pálsson, nú viðstaddr.

Nefndin út af ársskýrslu forseta m. m. kom með álit sitt þannig:

Vér, sem kosnir vorum í nefnd til þess að íhuga ársskýrslu forseta og raða málum á dagskrá, leyfum oss að koma fram með það álit vort:

Kirkjuþingið vottar hinum háttvirta forseta kirkjufélagsins innilegt þakklæti fyrir þá miklu alúð og brennandi áhuga,sem hann ætíð hefir sýnt og sýnir málefnum þess jafnvel mitt í sínum langvinna og þungbæra sjúknaði. Ennfremr vottar kirkjuþingið varaforseta kirkjufélagsins þakklæti sitt fyrir alla hans miklu og ágætu starfsemi í þjónustu þess.

Þessi mál ráðum vér þinginu til að taka til meðferðar:

1. Prestleysi safnaðanna.
2. Um útgáfu á prédikunum séra J. Bjarnasonar.
3. Um kaup á bókasafni séra E. Ó. Briem.
4. Um löggilding kirkjufélagsins.
5. Skólamálið.
6. Sameiningin.
7. Um borgun á ferðakostnaði kirkjuþingsmanna.
8. Sunnudagaskólamálið.
9. Um kaup á nauðsynlegum guðsorðabókum.
10. Samskotamál.

Samþykkt var, að *bindindismálinu* skyldi bœtt við sem 7. máli á dagskránni.

Álit nefndarinnar út af *prestaskortsmálinu* var næst lagt fram til umrœðu þannig hljóðanda:

Nefnd sú, sem þér í gær settuð til þess að íhuga prestsleysismálið, leyfir sér að koma fram með eftirfylgjanda álit:

Innan safnaða kirkjufélagsins er einna mest þörf á aukinni prestþjónustu á þessum stöðum: Í Nýja Íslandi og Selkirk, Þingvalla- og Lögbergs-nýlendum, Argyle-nýlendu og Brandon og á ýmsum stöðum í Norðr-Dakota. Allmargir þessara safnaða hafa beinlínis beðið kirkjuþing þetta að hlutast til um það, að þeir sem fyrst gæti fengið prestlega þjónustu frá kirkjufélaginu. Ennfremr væri nauðsynlegt, að kirkjufélagið ynni að myndun safnaða meðal Íslendinga á þeim stöðum, þar sem engir söfnuðir hafa enn myndazt.

Nýlega hafa kirkjufélaginu bœtzt tveir nýútskrifaðir guðfrœðingar, kand. B. B. Jónsson og kand. Jónas A. Sigurðsson. Eins og bent var á í ársskýrslu forseta, þá hefir hinn síðar nefndi fengið köllun frá 2 söfnuðum í Norðr-Dakota og verðr vígðr til þeirra safnaða á kirkjuþingi þessu. Og það er álit nefndarinnar, að með þessu sé að miklu leyti bœtt úr prestsleysinu í Norðr-Dakota, því hún telr sjálfsagt, að hann innan skamms fái köllun frá fleiri söfnuðum þar.

Til þess að bœta úr prestleysi safnaðanna annars staðar í kirkjufélaginu álítr nefndin nauðsynlegt, að það kalli sér þegar í stað missíónsprest, sem undir umsjón kirkjufélagsins ferðist um meðal

hinna prestlausu safnaða þess og starfi að myndun nýrra safnaða, þar sem því verðr við komið. Nefndin ræðr því til, að kirkjufélagið kalli kand. Björn B. Jónsson til þess starfa um óákveðinn tíma og sendi honum köllunarbréf í dag, svo hann geti tekið prestvígslu á morgun, ef hann tekr á móti kölluninni. Nefndin leggr til, að honum skuli boðnir 50 dollarar í laun um mánuðinn auk ferðakostnaðar.

Samþykkt án breytinga í einu hljóði, og sem sjálfsögð viðbót við nefndarálitið einnig tillaga um, að ritað væri köllunarbréf frá embættismönnum kirkjufélagsins til kandídats Björns B. Jónssonar.

Erindsreki Árnessafnaðar, Sveinn þorvaldsson, sem áðr var ókominn til þings, var viðstaddr á þessum fundi.

4. fundr, sama dag, kl. 3 e. m.

Skýrt frá af varaforseta, að Birni B. Jónssyni væri þegar sent köllunarbréf í nafni kirkjufélagsins, og að hann hefði tekið þeirri köllun.

*Útgáfa prédikanasafns eftir séra Jón Bjarnason.*

það mál var næst rætt, og að lokum því viðvíkjandi í einu hljóði samþykkt þessi tillaga:

Vér, sem sitjum hér á 9. ársþingi hins ev. lút. kirkjufélags Ísl. í Vesturheimi, látum í ljósi ánægju vora yfir því, að forseta kirkjufélagsins hefir hugkvæmzt að láta prenta prédikanir sínar. Fyrirtæki þetta viljum vér styðja eins vel, og oss er unnt. Viljum vér því skora á séra Jón Bjarnason að gefa út boðsbréf til áskrifta hið bráðasta, að honum er unnt, og senda öllum erindsrekum kirkjuþings þessa, og skuldbindum vér oss þá til, að safna sem flestum áskrifendum hver í sínu byggðarlagi.

*Kaup á bókasafni séra Eggerts heitins Briem.*

Eftir all-miklar umræður um þetta mál var því vísað til 5 manna nefndar, sem í voru þeir, er nú skal greina: Vilhelm H. Pálsson, Friðjón Friðriksson, Árni Friðriksson, Sigfús Bergmann og séra Friðrik J. Bergmann.

*Löggilding kirkjufélagsins.* Vilhelm H. Pálsson skýrði frá, að upplýsing um það mál frá lögfræðingum, sem leitað hefði verið til, væri væntanleg á mánudag næst komanda. Málinu var því frestað til óákveðins tíma.

Eins var *skólamálinu* frestað til mánudags og málinu viðvíkjandi tímariti kirkjufélagsins „*Sameiningunni*" til þriðjud.

*Bindindismálið.* Eptir að um það hafði verið rætt um hríð, var eptirfylgjandi yfirlýsing samþykkt:

Kirkjuþingið skorar á alla þá, sem hafa á hendi kristindómsuppfræðslu barna í söfnuðum kirkjufélagsins, að innræta æskulýðnum bindindi og andlegt og líkamlegt skaðvæni drykkjuskaparins. Ennfremr óskar kirkjuþingið, að „Sam." hafi meðferðis við og við ritgjörðir til hjálpar baráttunni gegn vínsölu og víndrykkju í þessu landi.

5. fundr, mánud. 26. Júní, kl. 9 f. m.

Féhirðir lagði fram reikning yfir tekjur og útgjöld kirkjufélagsins fyrir hið liðna ár, yfirskoðaðan af þar til kjörnum mönnum, og var hann staðfestr af kirkjuþinginu. Voru nú í sjóði $128.97. — Tekjur höfðu verið á árinu $82.95, en útgjöld $123.70.

Því næst kom nefndin í málinu um *kaup á bókasafni séra Eggerts heitins Brie*… með álit sitt. En þar sem nefndarálitið benti á engin ákveðin ráð til að kaupa safnið, en lét þó hinsvegar í ljósi, að það myndi vera mjög eigulegt og verð það, er það var boðið fyrir til kaups, sanngjarnt, varð það að samþykkt eftir nokkrar umræður, að sett skyldi enn nefnd í málinu, með 3 mönnum í, er skyldi leita fjársamskota meðal kirkjuþingsmanna til að kaupa bókasafnið fyrir. En hæfilegt þótti nú að bjóða $200.00 fyrir safnið, sem, ef af kaupunum yrði, skyldi gefið hinum fyrirhugaða skóla kirkjufélagsins. Í nefnd þessa voru kvaddir þeir Friðjón Friðriksson, Vilhelm H. Pálsson og Ásvaldr Sigurðsson.

Þessum þrem málum var nú bætt við á dagskrá: *barnablaðsmál*, *mál um að lána kirkjur* og *mál um minnisvarða yfir séra Pál heitinn Þorláksson.*

*Borgun ferðakostnaðar kirkjuþingsmanna.*

Það mál lá yfir frá síðasta kirkjuþingi, og var þá erindsrekum safnaðanna falið á hendr að sjá um, að það væri rætt í söfnuðunum og fengi kirkjuþing svo að heyra álit þeirra. Samþykkt því nú, að 3 manna nefnd væri sett til að safna slíkum skýrslum frá erindsrekunum. Nefndarmenn urðu: Jón Á. Blöndal, séra Jónas A. Sigurðsson og séra Björn B. Jónsson.

*Löggilding kirkjufélagsins.*

Álit lögfræðinga um það mál var nú framlagt, og málinu síðan vísað til 5 manna nefndar. — Nefndarmenn urðu: Páll S. Bardal, Ásvaldr Sigurðsson, Kristján Jónsson, Vilhelm H. Pálsson og Magnús Pálsson.

6. fundr, sama dag, kl. 3 e. m.

Kveðja til þingsins frá séra Jóni Bjarnasyni upplesin af séra Steingrími Þorlákssyni, svar upp á hraðskeytið um kosning hans.

*Sunnudagsskólinn og barnablað.*

Um það mál hvorttveggja var nokkuð rœtt, en í hvorugu málinu var nokkur sérstök ályktan tekin. Báðum frestað til óákveðins tíma.

*Kaup nauðsynlegra guðsorðabóka.*

Kom fram við umrœðr um þetta mál, að skortr hefði í liðinni tíð verið á slíkum bókum. Vilhelm H. Pálsson, sem hefir bókasölu á hendi, bauðst til að hafa ávallt fyrst um sinn nóg af sálmabókum, biblíusögum, stafrofskverum og „spurningarkverum“. Þetta tilboð var með þökkum þegið af kirkjuþinginu.

*Skólamálið.*

Álit hinnar standandi nefndar í því máli ásamt skýrslu hennar um skólasjóðinn lesið upp og lagt fyrir þingið þannig hljóðanda:

Vér, sem á síðasta kirkjuþingi vorum kosnir til þess, að hafa umsjón á skólasjóði kirkjufélagsins og leita samskota fyrir hann á þessu ári, leyfum oss að lýsa yfir því, að oss hefir, að því er snertir samskotin, orðið minna ágengt, en vér œsktum. Olli því fyrst og fremst peningaskortr sá, sem almennt hefir átt sér stað í landinu og að öðru leyti annríki þeirra manna, sem mest hefði gengizt fyrir samskotum þessum, ef tíminn hefði leyft þeim það.

Hér með látum vér fylgja skýrslu um skólasjóðinn og sýnir hún, að samskotin hafa verið hörmulega lítil.

Oss er ekki ljóst, hver árangr hefir orðið af áskorun þeirri um styrk til skólans, er nokkrir helztu forvígismenn kirkjunnar á Íslandi góðfúslega sendu út um landið, en það lítr svo út, að undirtektir þess máls hafi verið daufar.

Þó að skólamáli voru þannig hafi lítið þokað áfram síðan á seinasta kirkjuþingi, þá megum vér engan veginn láta hugfallast, heldr verðum vér með auknu kappi og áhuga að vinna að því.

Framtíð kirkjufélagsins byggist á því, að það komi á fót góðum skóla. Látum oss alla hafa það hugfast, að skólinn þarf í síðustu lög að verða byggðr um næstu aldamót.

Það er lífsnauðsynlegt fyrir skólamálið, að nú þetta næsta ár vinnist það upp, sem vanrækt hefir verið á liðnu ári. Upphæð sú, er safna verðr í söfnuðum kirkjufélagsins þetta næsta ár, er því tvöföld við hið vanalega. Vér eigum hátt á fimmtánda hundrað dollara í sjóði. Þá upphæð ættum vér nú að einsetja oss að tvö-

falda þetta næsta ár. En vér gjörum þetta því að eins, að gengið sé að því verki eins einbeittlega og framast má verða.

Fyrir samskotum í skólasjóð verðr að gangast í söfnuðunum nú þegar í haust á þeim tíma, þegar peningaástœður manna eru beztar.

Allir erindsrekar safnaðanna, sem á kirkjuþingi þessu sitja, verða nú að taka að sér skólamálið með brennandi áhuga og gjöra allt, sem í þeirra valdi stendr til að hrinda því áfram, bæði með því að mæla með málinu við hvert tœkifœri og fá menn til að leggja ríflega fram til þess. Heiðr vor allra og velferð þess málefnis, sem vér erum að starfa fyrir, er í veði, ef vér ekki sýnum mikla og góða rögg af oss í máli þessu fyrir næsta kirkjuþing.

Látum því alla þá, sem sitja á kirkjuþingi þessu, taka höndum saman um skólamálið í drottins nafni og heitstrengja það hver í sínu lagi að gjöra það, sem honum er unnt.

Skýrsla um skólasjóð kirkjufélagsins á ársþingi 26. Júní 1893.

| | |
|---|---|
| Í sjóði hinn 1. Júlí 1892.............. | $1246.42 |
| Vextir af sjóðnum á árinu........... | 101.07 |
| Gefið til skólans á árinu............. | 115.50 |
| Samtals í skólasjóði | $1462.92 |

Við höfum yfirskoðað skólasjóðsreikningana fyrir síðast liðið fjárhagsár og vottum, að þeir eru rétt og ágætlega fœrðir, og að ofanskrifuð skýrsla er samhljóða þeim reikningum.

V. H. Paulson, Björn B. Jónsson, yfirskoðunarmenn.

Skólamálið síðan all-mikið rœtt og þeim umrœðum eigi lokið fyr en á næsta fundi.

7. fundr, sama dag, um kvöldið.

Framhaldið umrœðum í skólamálinu.—Nefndarálitið samþ.

*Minnisvarði á leiði séra Páls heit. Þorlákssonar.*

Það mál hefir legið yfir frá því fyrir nokkrum árum. Þá var á kirkjuþingi í því kosin 3 manna nefnd. Og við hana var nú bœtt 2 nýjum mönnum, þeim séra Jónasi A. Sigurðssyni og séra Birni B. Jónssyni. Gömlu nefndarmennirnir eru: séra Jón Bjarnason, séra Friðrik J. Bergmann og Friðjón Friðriksson.

Fram var flutt tillaga um, að samin væri

*Viðauki við aukalög kirkjufélagsins,*

þess efnis, að sett skyldi standandi nefnd til þess í nafni kirkjufélagsins að prófa presta eða prestaefni, sem ganga vildi í þjónustu fjelagsins. Samþykkt og vísað til 3 manna nefndar, sem í voru þeir séra Steingrímr Þorláksson, séra Hafsteinn Pétrsson og séra Friðrik J. Bergmann.

8. fundr, þriðjudag 27. Júní, kl. 9 f. m.

Nefndarálit í málinu um *viðauka við aukalög kirkjufélagsins* lesið upp og lagt fram svo hljóðanda:

Það er brýn skylda kirkjufélagsins að afstýra þeim ófögnuði, að svo miklu leyti, sem í þess valdi getr staðið, að nokkrum presti yrði framvegis unnt að takast prestsþjónustu á hendr í kirkjufélaginu, án þess trúarsannfæring hans væri að öllu leyti hin sama og þess, og að vinna nokkrum söfnuðum annað eins andlegt tjón og leiða þá út í aðrar eins hörmungar, og séra Magnús J. Skaftasen hefir valdið söfnuðum sínum í Nýja Íslandi með hinu hryggilega trúarfráhvarfi sínu.

Vér leyfum oss því að ráða þinginu til að bœta eftirfylgjandi lagaákvörðun við aukalög kirkjufélagsins:

Áðr en nokkur prestr, sem eigi hefir áðr verið í þjónustu kirkjufélagsins tekr við starfi sínu í nokkrum söfnuði þess, skal forseti og varaforseti, eða í forföllum annars hvors skrifari, ásamt einum leikmanni, er til þess skal kvaddr af hinum tveimr, eiga samtal (colloquium) við prestinn um skilning hans á kenningum kirkju vorrar, samkvæmt guðs orði og trúarjátningum lútersku kirkjunnar. Ef þessir þrír menn skyldu í einhverju tilfelli komast að þeirri niðurstöðu, að slíkr prestr væri óhœfr til að gjörast prestr í kirkjufélaginu sökum villukenningar sinnar, er það skylda þeirra að sjá svo um, að hann taki öldungis ekki við prestskap innan kirkjufélagsins.

Nefndarálitið óbreytt samþykkt.

Reikningr yfir fjárhag „Sameiningarinnar,“ tímarits kirkjufélagsins, lesinn upp og lagðr fram rannsakaðr og staðfestr af yfirskoðunarmönnum. Sýndi hann, að blaðið var í $81,86 skuld, en átti jafnframt úti standandi hjá áskrifendum $1362.55 (nl. fyrir 5. árg. $173.00, fyrir 6. árg. $160.35, fyrir 7. árg. $328.70, fyrir 8. árg. 700.50). — Kaupendr að 8. árg. taldir 755.

Í útgáfunefnd blaðsins allir endrkosnir, sem voru síðast liðið ár: séra Jón Bjarnason, Páll S. Bardal, séra Friðrik J. Bergmann, séra Hafsteinn Pétrsson, séra N. Stgr. Þorláksson, Magnús Pálsson, Jón Blöndal.

*Ferðakostnaðr kirkjuþingsmanna.*

Í því máli lagt fram svo hljóðanda nefndarálit:

Vér höfum að eins fengið úrskurði 6 safnaða í þessu máli. Tveir eru ákveðnir með því fyrirkomulagi, að kirkjufélagið borgi slíkan ferðakostnað. Tveir álíta, að kirkjufél. ætti að einhverju leyti að létta kostnað fjarlægra safnaða með fjárstyrk, og fara fram

á, að kirkjuþingið gjöri samþykkt í þá átt. Tveir hafa greitt atkvæði á móti fyrirkomulaginu.

Vér nefndarmenn álítum sjálfsagt að byggja tillögu vora í málinu á þessum úrskurðum safnaðanna. Tillaga vor er því sú, að kirkjufélagið hér eftir borgi járnbrautarfargjald erindsreka á kirkjuþing, og til þess að mœta þeim útgjöldum, leggi gjald á söfnuði sína að hlutfalli við tölu þeirra fulltrúa, sem þeir hafa heimild til að senda á þing.

Samþykkt eftir nokkrar umrœður, að málinu sé aftr vísað til safnaðanna upp á það, að þeir láti erindsreka sína flytja vilja sinn inn á kirkjuþing að ári.

Einnig kom sú tillaga fram, að kirkjuþingið til bráðabyrgða samþykki, að forseta sé veitt vald til að veita fjarlægum og fátœkum söfnuðum, er um það kynni að sœkja, allt að $25 styrk alls á ári úr kirkjufélagssjóði, til að senda erindsreka á kirkjuþing, svo framarlega sem fé er fyrir hendi.

Tillagan samþykkt.

Samþykkt, að hin kjörna nefnd í málinu út af minnisvarða á leiði séra Páls heitins Þorlákssonar skyldi vera standandi nefnd.

9. fundr, sama dag, kl. 2 e. m.

*Löggilding kirkjufélagsins.*

Í fyrra var samþykkt, að kirkjufélagið skyldi löggilt samkvæmt þar að lútandi lögum í Norðr-Dakota. En enn var það þó eigi orðið að framkvæmd sökum ýmsra örðugleika, er mönnum voru ókunnir í fyrra. Frá þessu skýrði nú nefnd sú, er sett var áðr í málinu, og kom fram bending um það, að nauðsynlegt myndi að löggilda félagið bæði innan Bandaríkja (N. Dak.) og í Canada, og að líklega myndi eigi unnt að fá á þessu fulla framkvæmd, fyr en að tveim kirkjuþingum liðnum. En í von um, að löggildingin kœmist þó á á komanda ári, voru fjárhaldsmenn fyrir kirkjufélagið kosnir, þessir þrír: séra Jón Bjarnason, séra Hafsteinn Pétrsson og Árni Friðriksson, og til vara í hinna stað: Jón Blöndal, Friðjón Friðriksson og Kristján Jónsson.

*Kaup á bókasafni séra Eggerts heitins Briem.*

Nefndin, sem kvödd hafði verið til að leita samskota meðal kirkjuþingsmanna til bókasafnskaupanna, skýrði frá, að hún hefði fengið $208.00 í loforðum og lagði fram skrá yfir upphæðir þær, er hver einstakr hefði lofað þeirra, er tekið hefði þátt í samskotunum.

*Lán á kirkjum.*

Erindsreki Brandon-safnaðar kom með fyrirspurn um það, hvort kirkjuþingið væri með því eða móti, að nefndr söfnuðr lánaði söfnuði með annarlegri trúarjátning kirkju sína. Með því að svona löguð mál liggja að sjálfsögðu undir úrskurð forseta, þá var samþykkt, að forseta (varaforseta) væri falið, að gefa nefndum söfnuði skriflega leiðbeining viðvíkjandi þessu kirkjulánsmáli.

*Næsta kirkjuþing*

var ákveðið að haldið skyldi *í Víkr-söfnuði* samkvæmt tilboði þaðan.

(þess skal í sambandi við þessa ályktan getið, að kirkjuþing þessa árs varð eigi haldið í St. Páls-söfnuði í Minnesota fyrir þá sök, að sú fargjaldslinun fékkst eigi, sem sett var í fyrra sem skilyrði fyrir því, að nefndr söfnuðr yrði kirkjuþingsstaðr í ár. Og svo bauðst Winnipeg-söfnuðr ýmsra orsaka vegna til þess, að taka á móti kirkjuþingi þessu í staðinn fyrir söfnuðina í Argyle, sem til vara höfðu í fyrra boðið þessa árs þingi til sín, ef það gæti eigi orðið haldið þar syðra. Argyle-söfnuðirnir höfðu síðr en ekki á móti því, og þannig lenti þetta kirkjuþing óvænt fyrir rás viðburðanna í Winnipeg í staðinn fyrir annaðhvort í St. Páls-söfnuði eða hinum tveim samliggjandi söfnuðum í Argylebyggð.)

Í skólanefndina allir endrkosnir, sem áðr voru: séra Jón Bjarnason, séra Friðrik J. Bergmann, séra Hafsteinn Pétrsson, Friðjón Friðriksson, Magnús Pálsson.

Standandi fimm manna nefnd kosin út af sunnudagsskólamálum kirkjufélagsins og öðrum málum, sem fyrir kynni að koma. Prestarnir allir 5, sem á þinginu voru, kosnir í þá nefnd.

Yfirskoðunarmenn kirkjufélagsreikninganna kosnir: Vilhelm H. Pálsson og séra Björn B. Jónsson.

Áætlaðar tekjur fyrir kirkjufélagið á komanda ári $150.00.

Séra Friðrik J. Bergmann endrkosinn sem *Engl. Corresp. secretary.*

Kirkjuþingið þakkaði Winnipeg-söfnuði fyrir móttökuna, varaforseta fyrir stjórn mála á þingi og utanþings, og ritstjóra Einari Hjörleifssyni fyrir bókan gjörðabókar.

*Fyrirlestrar.*

Á laugardagskvöldið 24. Júni flutti séra Friðrik J. Bergmann fyrirlestr á kirkjuþinginu um *gamla testamentið*, sérstaklega til skýringar ýmsum stöðum þess, sem helzt verða fyrir árásum vantrúarmanna. — Annan fyrirlestr flutti séra N. Steingrímr Þorláksson á mánudagskvöldið 26. s. m. Efni þess fyrirlestrs var: *Kristr og gamla testamentið.*

*Almennar umræður*

fóru fram á þriðjudagskvöld 27. Júní um *kristilegt umburðarlyndi.* Séra Hafsteinn Pétrsson hélt inngangsræðuna, Vilh. H. Pálsson stýrði umræðunum.

Sama dag, seint um kvöldið, var kirkjuþinginu slitið samkvæmt vanalegu þinglokaformi.

*Prestvígsla.*

Á sunnudaginn 25. Júní vígði varaforseti, séra Friðrík J. Bergmann með aðstoð hinna prestanna í hádegisguðsþjónustunni hina tvo kandídata: Jónas A. Sigurðsson til prests í Vídalínssöfnuði og Pembina-söfnuði í Norðr-Dakota, og Björn B. Jónsson til missíónsprests kirkjufélagsins. Hinn fyrnefndi kandídat prédikaði á eptir vígslunni í sömu guðsþjónustunni, hinn síðari í guðsþjónustunni um kvöldið.

---

Séra Hafsteinn Pétrsson flutti alfarinn tíl Winnipeg rétt fyrir kirkjuþing. Í samfélagi við séra Jón Bjarnason veitir hann Winnipeg söfnuði prestþjónustu. Adressa hans er 588 Fourth Ave N. Winnipeg Man. Can.

---

Lexíur fyrir sunnudagsskólann; þriðji ársfjórðungr 1893.

10. lexía, sunnud. 3. September: Páll líðr skipbrot (Post. gjörn. 27, 30—40).
11. lexía, sunnud. 10. September: Páll í Róm (Post. gjörn. 28, 20—31).
12. lexía, sunnud. 17. September: Persónuleg ábyrgð (Rómv. 14, 12—23).
13. lexía, sunnud. 24. September: Yfirlit.

---



---



---



---

„SAMEININGIN“ kemr út mánaðarlega, 12 nr. á ári. Verð í Vestrheimi: $1.00 árg.; greiðist fyrir fram. — Skrifstofa blaðsins: 704 Fifth Ave. N., Winnipeg, Manitoba, Canada.—Útgáfunefnd: Jón Bjarnason (ritstj.), Páll S. Bardal, Friðrik J. Bergmann, Hafsteinn Pétrsson, N. Stgr. Þorláksson, Magnús Pálsson, Jón Blöndal.

PRENTSMIÐJA LÖGBERGS — WINNIPEG.